# Tilraun

## ad svara uppá Spursmálid

um

## Jafnvægi Búdrýginda

millum

## Sauda og útlendskra Matvæla

framsett í Islands minnisverdu Tídinda
2 Bindis 1 Deild p. 154-6.

---

Skrásett af

Sira Jóni Jónssyni,

Presti til Mødruvalla og Grundar-Sokna i Eyafirdi

og

launud med þeim í áminstum Tídindum
fyrirheitnu 10 Rdlum.

---

Prentud í Kaupmannahøfn 1801,
hiá Sebastian Popp. Ad Forlagi Amt-
manns Herra S. Þórarins sonar.

Hollt er heima hvat.

Odin i Háſamálum.

Spursmál Hra. Amtmanſins um þá réttu brúkun Saudanna fyrir Sveitabóndan deiliſt í 3 Atridi, hverra hvørt um ſig heimtar ſína Yfirvegan og Urlauſn, ef Spursmálſins Innihalld ſkal med Svarinu úttæmaſt.

1ta Atridi: hvørt helldur er þad ſú rétta Brúkun á Saudum fyrir Sveitabóndan, ad láta þá í Kaupſtad, edur ſlátra þeim heima?

Mér ſýniſt Svarid hér uppá hljóti ad vera eptir Kauphøndlunarinnar og Tidarinnar Aſigkomulagi breytilegt, eins og hvørttveggia þeſſara er breytilegt.

1) í tilliti Kauphøndlunarinnar, þegar hún borgar Bóndanum ſvo vel Saudi hans, ad hønum er ecki einúngis ſkadlauſt, helldur Hagnadur, ad ſelja þá, mun hann þeckja Skyldu, ad ſæta Gagni ſínu. En borgi út-

 lendſka

lendska Hendlunin henum þá midur, enn þú í svarar, ber henum miklu helldur ad lóga þeim heima.

2) í tilliti Tídarinnar, edur bóndans egin og Alþýdu bjargrædishátta, þá.

" — a) hvad hanns egin Búskap snertir, kann svo ástadt vera, ad hann megi ecki Saudum frá búinu farga, þó hann fái þá skadlaust borgada, þegar nefnilega hann þarf ad leggja meira bjargrædi til Bús síns, enn þad af ser gefur, þá er henum hollara ad slátra þeim heima, enn kaupa matvørur fyrir adra aura, ef fáanlegt er. En fái hann ecki í Kaupstadnum Matvørur med ødru móti sem stundum er, nema hann láti þángad nockud af Saudum, skal hann þó varast ad láta alla þá Saudi í Kaupstad, fyrir útlendska Matvøru, sem hann lóga þarf, helldur slátra ad Minnsta kosti helmíng þeirra heima, þar med þvi móti gétur hvør Matvøru-tegundin bætt upp adra, sú útlendska þá íslendsku ad dryngindunum, en þessi hina ad Matargiædunum.

" — b) hvad Alþýdu bjargrædishattum vidvíkur, er þad athugandi, ad þó Bondinn fyrir sialfs síns búshag, megi vel Saudum farga til Kaupstadar, og þad ecki einúngis í matvøruskiptum, helldur fyrir penínga, skyldi hann jafnan ádur lita til Alþýdu Astands, sem til síns egin. Þykist hann fyrir sjá matvæla Skort manna ámedal, gjørir hann man-

nel-

nelſkulegaſt ad ſelia ecki Saudi fyrir peninga útlendum þad ár, helldur ſlátra þeim heima, og unna Løndum ſinum til kaups matarins af þeim, og kann hann med því móti ſvo vel ad koma árum ſinum fyrir bord, ad hann engan óhagnad haſi af þvílikri Sølu, jafnvel hann maſké fái ecki peníngum hafnad þarmed eins í haſti, ſem ella. Og — hvørt Gagn er ad peninga Safninu þegar hardindi yfirdynja, en hvorgi fæſt Matbiórg þó Gull ſé í bodi, um hvad þaug ſidurſtu hardindi báru lióſaſt vitni, því til þeſſ vóru Dæmi, ad þeir menn dóu þá í hardretti, ſem eptir ſig létu bædi peninga og annad Silfur.

Þeim ſem annars Saudi miſſt géta frá búi ſinu, fyrir adra Aura enn Matvørur, hvørſu vel gjørdu þeir, ad innkaupa fyrir þá íslendſk edur útlendſk Matvæli, ſem geimaſt kynnu til ſeinri tímana, helldur enn láta ávaxtarlauſa peninga liggja í handradanum. Mikla þenuſtu ſýndu ſlikir ſinu fátæka Fødurlandi, er ſvo opt hlýtur hardindum ad mæta, þar þeſſ ætlar lengſt verda ad bída, ad þau eptiræſktu Fordabúr komiſt hér íſtand, ſem fáum Løndum rídur þó meira á, enn þeſſu. En ad ſelia Saudi edur adrar Matvørur í Kaupſtad fyrir Ofeydſluvarning, ſvoſem Brennuvín, Tóbak og annann Oþarfa, hvílikur Ogjørningur þad ſe, vil eg eigi umtala.

Annars

Annars væri þad allrá rádlegâst hverjum Sveitabónda, sem gétur, ad venja sig, sem mest, ad búa, án þess ad kaupa útlendskar Matvørur, og ad nota sér siálfum afrakstur Busmala sins; þad er rádlegast, segi eg, hvad sem uppákémur, því hvornig mundi um þeirra kiør fara, hverra mesta búſtod ad Kaupstadurinn er, ef Misbrestur yrdi á Matvøru Adflutníngi útlendskra, sem audvelldt ské kann ýmsra Ordsaka vegna. En slíkt tekst þó ecki nema í þeim Sveitum, sem annadhvort hafa sérlega gódann Utigáng edur yfirgnæfanlegan heyskap, en í hinum ecki. Þó er þad mikilvægt Spursmál: hvort Island, yfir høfud, mundi ei géta fædt sin egin Børn, án útlendra Matvæla, ef eckert af þess egin til Siós edur Lands øbludu Matfaungum gengi út af því, svo þær Sveitirnar, sem Afgangs hafa, gætu seldt hinum, þad sem brestur til þeirra biargrædis?

Nockrir álita búdriúgast. ad slátra øllu fé sinn heima, en kaupa adeins fyrir Tolgin og Ullina tætta matvørur ad útlendskum, og iáta eg ad vísu, ad svo er, ef þad altíd gæti skéd annara Ordsaka vegna. En skyldi Alþyda taka þad fyrir sig, mundu Kaupmenn ei lengi selia Mønnum Matvørur sinar fyrir Tólg og priónles, ef þeir fengu ecki kiøtid, sem er þeim svo dýrmæt, hendlunarvara. — Þar ad auki er þad adgætandi, ad bóndi sa,

sem annars á nóg fé, hefur svo mikla ullu af því, bædi ad vori, og því sem hann skér ad hausti, ad hann gétur ei upptætt meiri Ullu, enn því svarar, og hlyti þessvegna, ef haustull af því fé, sem hann í Kaupstad lætur, bættist vid hann, ad selja Ullina ótætta, sem þá skardadi ábatan.

En setjum ad þessar hindranir ecki væru, þá mundi hitt ei all-lítill hagnadur; því til dæmis: Madur hefur, allt ad þessu Sumri, fengid fyrir veturgamlan Saud á fæti opstast 1 qvartil Miøls, medan Miøltunnan, seldist fyrir 5 til 6 rixdala, edur og máské 40 potta Rúgs. Nú skér madur heima, brædir mørinn, fær 4 Pd. Tólgar á 9 ß., tætir háustullina fær 3 pør á 18 ß.; þetta kostar tilsamans 90 ß. Seljist nú Miølqvartilid fyrir 1 Rd. 40 ß., vantar hann til verds þess 46 ß., þad er fyrir $27\frac{1}{16}$ Merkur Miøls, þegar í Qvartilinú reiknast 40 Pd., edur fyrir $12\frac{1}{17}$ potta Rúgar, og mun feitid af Saudunum ásamt øllu Slatrinu vera eins búdriúgt, og annadhvørt þessara.

En þar sem ecki er fyrir slíku rád ad giøra, ad allir vili edur allir kunni þessum máta fylgia, helldur hlióti ad selia fé sitt á fæti edur blódvelli útlendskum, þá rídur á, ad Sala sú sé ei bóndanum til skada, sem þó skédur nær sem hellst Saudir eru ecki svo

vel

vel borgadir, ad Andvirdi þeirra í útlendſkum Matvælum, er ecki eins búdrjúgt bóndanum, ſem ſiálfir Saudirnir, edur ef þeir borgadir eru med penínga, ad Miølvara ſú, fyrir ſømu penínga fáſt kann á ſømu Tid, halldi ei búdrygginda jafnvægi móti Saudunum. En ad úppfinna þad ſanna iafnvægi millum Miølvøru og Sauda, er vandaſamt, ſøkum þeſſ allir nota ſér ecki eins driúglega, hvørki inn-ne út-lendar Matvørur.

Og þetta er þó þat efni, ſem lítur til úrlauſnar hins 2rs Atridis í framſettu Hra. Amtmanſins Spursmali: Hvad Saudir, þegar þeir annarskoſtar útlendſkum ſeliaſt, egi ad metaſt móti útlendſkum Matvælum, í tilliti beggja búdrygginda og nota í búnadinum?

Ecki neita eg, ad Saudir kunni ſtundum ſvo vel borgadir ad vera í Korni edur Miøli, ad þad ſé Bóndanum hagnadur, ad ſelia þá fyrir þad, en lángt frá ecki alltíd, og gánga menn of-opt blindt til verks í þeim kaupſkap, og láta útlendſka ráda verdi vøru ſinnar, án þeſſ ad athuga rétt náqvæmlega, hvørt Kaupid verdi búinu til ſkada edur Avinníngs. Og þó menn reikni til Búdrygginda, brúka menn til Grundvallar, gamlan óvana, mér liggur vid ad ſegia óhóf í Kiøtmetis notkun manna.

Þeir

Þeir segja: er mér ecki nockud dríugra Miølqvartilid enn veturgømul Kindin? Þó eg hengi upp af henni Krofid, verdur þad ecki langur fordi, en Miølid er svo handhægt, eg gét drýgt þad med Miólksopanum lángtum lengur. Adgætnir siá, hve Alyktan þessi er velbygd.

Því fyrir utan þad, sem hángikiøts brúkun er eptir vananum nærsta óbúdriúg, þá gæta Menn þess oslítt, hve miklu betri fæda þad í siálfu sér er, enn Miølvamatur, því ecki er Miølinu þad ad þacka, sem Miólkin bætir þad.

Þarfyrir þegar menn réttilega vilia meta Kiøtmeti móti Miølvamat, hlióta menn ad athuga ecki einúngis jafnann Matarvøxt á hvorutveggiu, helldur og Mismun Matargædana, og reikna svo nidur, hve Marga Málsverdi jafna, ecki svo ad vexti, sem giædum, fá megi af einum Saud, og einri sképpu edur einri túnnu korns edur Miøls, og bera sídan saman Mismunin til ad finna løfnudinn.

Byrja eg þá fyrst á Saudunum.

Þrennslags Matartilbúníngur er tídkanlegastur í Landi voru hia Almúga af Kiøti þeirra, nefnilega: Spad, Hángikiøt og Kiæfa.

1) hvad Spadid snertir; tek eg til Grundvallar Setníngu Stiftamtmanns Herra O.

Stefánssonar í hinu 5ta Riti þess konúnglega Lærd. Lista Félags blſ. 86, hvar hann segir: ad med því ad Matreida á þennan hátt Saudin, megi hæglega ná 30 Máltídum af veturgømlum, med høfdi, fótum og innanmat øllum, en 50 af gømlum, eg set 37 af tvævetrum og 44 af þrévetrum. Og þó hann tiltaki þad ecki útþryckilega, skil eg þad þó fyrir utan Mørin, nefnil. Netin og Nýrnmør, því garnmør er í blódid brúkadur, og tel þad sæmilega nóg, þegar Málsverdir reiknast fyrir sin helmíng af hvørium, køllum og konum, og tekin er til nidurlags Medal-Saudur, hvørki hinn besti né lakasti. Þó søkum þess ad Miøl þarf út á Súpuna, reikna eg frá nockud af Mør edur Tólg hvørs Saudar fyrir sig.

" — a) í tilliti veturgamalls. Þad kalla eg Medal-Saud veturgamlan, sem skérst med 4 til 5 Pd. Mørs, á tvo Mørva. Þó set eg ecki tólginn nema 3 Pd., til þess síst verdi sagt, eg giøri um of af Saudum vorum, en helmíng tólgsins reikna eg frá, fyrir Miølid út á Súpuna. Haustull af veturgømlum set eg vid 2 Pd. vorullar, og met móti 2 Pd. tólgar, og mætti þó, ef Ullin ecki ótætt reiknud væri, metast vel ámóti 3 Pd., hvad eg vil þó ei gjøra. Skinnid herdt set eg 1 Pd., sem eg ogsvo set móti 1 Pd. tólgar, jafnvel Saudskinn hafi í landi

voru

voru um lengst reiknad verid' twígyldt vid tólg og smior. Verdur svo helmingur tólgar, Ull og skinn af Saudnum jafnt vid 4½ Pd. tólgar edur Smiers, sem eg reikna til Málsverda svoleidis: Eg reikna útvigt í fiski og smiori ad nockru leiti eptir Alþingis Samþyckt-inni aptan vid Búalög pag. 139, og ad nockru leiti eptir þeirri í Landinu brúkanlegu útvigt, nefnilega: Smiorid eptir Samþyckt-inni handa kallmanni í einn Málsverd 8, og Qvenmanni 5¼ Lód, en fiskin þar ámóti helmingi meiri eptir algengum vana. Nú vil eg reikna heilann Málsverd iafngylldan Smiori, ad því skapi, ad 4 fiórdúngar fiska fáist fyrir 1 Fjórdúng tólgar edur smjørs, verdur þá Kallmanns Málsverdur 12 Lód, en Konu 8, en Midlúngs Málsverdur 10 Lód. Fást þá úr 4½ Pd. tólgar 14$\frac{4}{10}$. Midlúngs Málsverdir, og þar sem úr honum øllum 44$\frac{4}{10}$ Málsverdir.

" — b). í tilliti twæveturs. Medal-Saud á þeim alldri kalla eg þan, sem skérst med 6 til 7 Pd. Mørs á two. Set þó ei tólgin nema 5 Pd., og reikna þar frá til Súpunnar 2 Pd. Haustullina af honum met eg vid 2½ Pd. tólgs, og skinnid herdt vid 1½ Pd.; iafnast þá 3 Pd. tólgar ull og skinn vid 7 Pd., úr hverium fást 22$\frac{4}{10}$ Málsverdir á 10 Lód. Og þar fallid af Saudnum mattist í 37, giorir hann allur 59$\frac{4}{10}$ Málsverdi.

" — c)

" — c) í tilliti þréveturs. Saud á þeim Alldri, sem skérst med 8 til 9 Pd. Mørs á tvo, nefni eg medal=saud. Tólgin set eg þó ecki hærra enn 7 Pd., og tel þar frá til Súpunnar $2\frac{1}{2}$ Pd. Haustull hans met eg móti $2\frac{2}{3}$ — og skinn móti $1\frac{2}{3}$ Pd. tólgar, hvar=fyrir $4\frac{1}{2}$ Pd. tólgar, Ull og skinn af hønum jafnast vid $8\frac{1}{3}$ Pd. tólgar, sem giøra $26\frac{4}{15}$ Málsverdi, og þar Saudurinn sialfur mattist til 44, þá verdur hann allur $70\frac{4}{15}$ Máls=verdir.

"—d) í tilliti fiøgravetra og elldri. Pad tel eg Medal=Saud á þeim alldri, sem skérst med 10 Pd. Mørs, en tólgin set eg þó adeins $8\frac{1}{2}$ Pd., takandi þar frá til Súpunnar 3. Haustull af hønum met eg vid $3\frac{1}{4}$ Pd. og skinn vid $2\frac{1}{4}$ Pd. tólgar, svo ad $5\frac{1}{2}$ Pd. Tólgar, Ull og Skinn iafnast vid 11 Pd. tólgar, hvar af verda 35 Málsverdir, og þar Saudurinn ad ødru mattist í 50, þá metst hann allur til 85 Málsverda.

2) Hvad Hángikiøts drýgindi snertir, þá reikna eg þau ecki eptir vana, helldur règlu bóndans í 11 Lærd. L. Fel. Riti blს. 234, sem segist hafa skamtad af því í Mid=dags=Máltíd kallmani 1 og Konu $\frac{1}{2}$ Pd., og verdur þá Midlúngs Málsverdur $\frac{3}{4}$ Pd., en og set 1 Pd., svo eg gángi úr skugga um, ad Málsverdurinn sé ánæganlegur til Sadn=íngar og Prisa, og hefur Madur þá til góda

af

af Saudnum tólg, ull, skinn og slátrid allt-saman.

" — a) í tilliti veturgamalls. Eg set ad Kjøtid nýtt af þvílíkum, sem eg til Matar tók, vegi 28 Pd., en verdi hángid 18 Pd. ad vigt; fást þá úr því 18 Málsverdir á þennann hátt: Slátrid, undir hvøru skilst allur innanmatur ur Saudnum, ad undan-teknum tveim mørvum, samt høfud og fætur, set eg af veturgømlum í 6 Medal Málsverdi. Tólgur, Ull og skinn, ádur reiknad, jafnast 6 Pd. tólgar, gjørir $19\frac{2}{10}$ Málsverdi; svo verdur þá allur Saudurinn þannig reiknadur í $43\frac{2}{10}$ Málsverdi.

" — b) í tilliti tvævetúrs. Kiøt af hønum á blódvelli set og 40 Pd., en hángid 24, sem gjørir jafnmarga málsverdi. Slátur af hønum set eg í 7 Málsverdi; en tólgur, Ull og skinn, jafnt 9 Pd. tólgs, gjørir $28\frac{8}{10}$ Málsverdi, og þá Saudurinn allur svoleidis $59\frac{8}{10}$.

" — c) í tilliti þrévęturs. Kiøt hans nýtt set eg 48 Pd., hángid 29, sem gjørir þá eins marga Málsverdi. Slátur af hønum tel eg í 8 Málsverdi. Tólgur, Ull og skinn á bord vid $11\frac{1}{3}$ Pd. tólgar, verda $36\frac{8}{30}$ Máls-verdir, og þá Saudurinn gjørvallur $73\frac{8}{30}$.

" — d) í tilliti fiøgravetra og elldri. Kiøt hans nýtt tel eg 55 Pd. hángid 34, og þá í jafnmarga Málsverdi. Slátrid set eg í 9 Máls-

Málsverdi. Tólgar, Ull og skinn jafnt 14 Pd. tólgar, gjørir $44\frac{8}{10}$ Málsverdi, og þessvegna Saudurinn heill og allur $87\frac{8}{10}$.

3) Hvad Kiæfu-brúkunini vidvíkur, þá reiknast hún einúngis til vidbits, en søkum þess, ad hún er þurrari í sér, helldur enn Smiør, þá, þar sem eg reiknadi ádur 10 Lód Midlungs-Málsvørd, af því reikna eg 16 af heni, en þá hefur madur til góda af Saudnum Slátúr, Ull og skinn, því mørinn allur fer í Kiæfuna.

" — a) í tilliti veturgamals. Kiæfu af hønum reikna eg 19 Pd., þar úr verda 38 Málsverdir á 16 Lód. En Slátrid giørir 6, og Ull og skinn, jafnt 3 Pd. tólgar, $9\frac{6}{10}$ Málsv. á 10 lód, og þá allur Saudurinn med þetta slag $53\frac{6}{10}$.

" — b) í tilliti tvævetur. Kiæfu af hønum set eg 27 Pd., sem giørir 54 Málsverdi; Slatrid 7, og Ull og skinn iafnt 4 Pd. tólgar, giørir $12\frac{8}{10}$ Málsv., og hann svo allur $73\frac{8}{10}$.

" — c) í tilliti þrévetur. Kiæfu af hønum set eg 33 Pd., sem verdur 66 Málsverdir; Slátrid 8, og Ull og skinn iafnt $4\frac{1}{3}$ Pd. tólgar, gjørir $13\frac{26}{30}$ Málsverdi, og þá Saudurinn allur $87\frac{26}{30}$.

" — d) í tilliti 4vetra og elldri. Kiæfu af hønum set eg 40 Pd., sem verda 80 Málsverdir; Slatrid 9; Ull og skinn vid $5\frac{1}{2}$ Pd.

tól-

tólgar, giørir $17\frac{6}{10}$ Málsverdi, og þessvegna allur Saudurinn $106\frac{6}{10}$.

Merk: eg reikna Kiæfuna nockru minni, eptir tiltølu, af elldri enn yngri Saudum, því þad er sannreynt, ad Kiøt rettist meir vid Suduna af hinum enn þessum.

Eptir þessu verdur þa þrennslags Undirstada til Málsverda reiknings af Saudunum, af hverri eg tek fiórda Medalvegin sem vissastan, á þennan hátt:

a) af veturgømlum verda í Spadi $44\frac{4}{10}$ Málsv.
í Hángikiøti $43\frac{2}{10}$
í Kiæfu $53\frac{6}{10}$
Medalvegurinn verdur ——— $47\frac{2}{30}$

b) af tvævetrum verda í Spadi $59\frac{4}{10}$
í Hángikiøti $59\frac{8}{10}$
í Kiæfu $73\frac{8}{10}$
Medalvegurinn ——— $64\frac{1}{3}$

c) af þrévetrum verda í Spadi $70\frac{4}{15}$
í Hángikiøti $73\frac{8}{10}$
í Kiæfu $87\frac{26}{30}$
Medalvegurinn ——— $77\frac{4}{30}$

d) af gemlum verda í Spadi 85
í Hángikiøti $87\frac{8}{10}$
í Kiæfu $106\frac{6}{10}$
Medulvegurinn ——— $93\frac{4}{30}$

Þessu

Þessu næst

kém eg til ad reikna þær útlendsku Matvørur til Málsverda hér á móti, og byria eg á Rúgkorni og Miøli, af hvøru mest er keypt af Almúganum, og er tvennslags Matar tilbúníngur þaraf hia Alþýdu tídkanlegastur, nefnilega Braud og Grautar: vil eg því siá hve marga Málsverdi, iafnvæga Saudakiøts Málsvørdum fá megi úr einri tunnu.

1) í tilliti Braudgerdar.

Eg reikna Miøltunnuna fyrir utan træd ad vigt 165 Pd., en Rúgtunnuna 195 Pd. (siá 5 Sel. Rit. bls. 161), og þá tunnuna til iafnadar 180 Pd. edur 18 Fiórdúnga.

Nú set eg Rúgmiøl iafnbúdriúgt Fiski, þad er, ad eins mikid þurfi ad vigt í einn Málsverd af því sem hønum, og er þad víst ad ei má þad minna vera, því naumast þykir þiónustu-fólki eins sadsamt braud sem iafnveginn fiskur til lengdar, ef annadhvørt skal ad eingaungu hafa. Medal-Málsverd í Smiøri hefi eg reiknad 10 lód, og þar Smiørid er fiórgyldt móti Fiski, og þá eins á móti braudi, þessvegna þurfa til iafngyldis vid 10 lód Smiørs 40 af Fiski edur Miøli, sem eg reikna Medal-Málsverd af því tægi. Nú þar 180 Pd. edur 5760 lód teliast í tunnu, verda 144 slíkir í henni.

2)

2) í tilliti Grautargerdar.

Undirstadan er þessi: Sál. Landfógeti Skúli Magnússon reiknar í 6 Fél. Riti blſ. 162 og 168, ad útá 50 Merkur vatns gángi 15 Merkur Miøls, þarfyrir þegar 18 Fiórd. edur 360 Merkur teliast í tunnu, fáist úr henni 1200 Merkur vatnsgrautar, sem eg tel 300. Midlúngs Málsverdi á 4 Mkr., og gánga þá 19½ lód Miøls til hvørs um sig, vantar svo rúman helmíng til ádursetts Médal-Málsverdar í Miøli.

Nú siá allir hve ólíkir Málsverdir ad Matargædum þad eru: løk 20 lód Miøls blávatni blandin, hiá einum Saudakiøts Málsverdi, edur Fiski og Smiøri; og hvad Vatnsgrautar sé kostalétt fæda, hefur Landfogetenn blſ. 169 leidt løgmætt dæmi til. A hønum þrífst engin ad eingaungu til lengdar, sem þiónustu hefur, en Saudakiøt og Slátur er þar ámót hin manhollasta fæda.

Þó met eg hana litlu meir en tvøfallda ad gædum, móti Miøli, þegar ádurtaldir 300 Málsverdir, fellast adeins til 144, eins og Miøltunan til braudgerdar reiknadist ádur.

Héraf flýtur þa.

Ad iøfnudur Sauda móti Rúgmiøli verdur svoleidis: þarsem 144 Málsverdir reiknast úr 1 tunnu, móti hve miklum parti hinnar sømu iafnast þá þeir 47 Málsverdir, sem veturgamli

 Sau-

Saudurin giorir, edur þeir 64, sem hin tvævetri, og þeir 93 sem hin gamli Saudur af ser gefur? Svar:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Sá veturgl. Móti | $\frac{47}{144}$ tunnu edur vart | | | | | $\frac{1}{3}$ |
| tvævetur | = | $\frac{64}{144}$ | = | = | = rétt | $\frac{4}{9}$ |
| þrévetur | = | $\frac{77}{144}$ | = | = | = rúmt | $\frac{1}{2}$ |
| gamli | = | $\frac{93}{144}$ | = | = | = = | $\frac{5}{8}$. |

En til liósari Skilníngs skal líkingin setiast þanneg: Eg setti 180 Pd. Miøls í tunnunni, þar fyrir af 144 Málsverdir iafnast veturgamli Saudurin edur 47 Málsv. $58\frac{3}{4}$ Pd. Miøls.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| tvævetur | = | = | = | 64 | = | 80 Pd. Ms. | |
| þrevetur | = | = | = | 77 | = | $96\frac{1}{4}$ | = |
| gamall | = | = | = | 93 | = | $116\frac{1}{4}$ | = |

Nú ef eg reikna þetta móti Rúgkorni, og set 1 Sképpu edur 18 potta ad vega 24 Pd., sem er þad algengasta hiá oss, þá iafngylda $58\frac{3}{4}$ Pd. M., edur veturg. Saudur $44\frac{1}{12}$ pt. Rúg.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 80 Pd. | = | tvævetur | = | 60 | = |
| $96\frac{1}{4}$ Pd. | = | þrévetur | = | $72\frac{5}{18}$ | = |
| $115\frac{1}{4}$ Pd. | = | gamall | = | $87\frac{3}{18}$ | = |

Framvegis hvad snertir hinar adrar útlendsku Matvørur, þá reikna eg til Búdrýginda Ertur jafnar Rúgkorni, Byggkorn $\frac{1}{4}$ ódrýgra en Rúgkorn, og eins Byggmiøl hia Rúgmiøli, því bædi er þad ákasts frekara og þykir lakara. — Grión met eg $\frac{1}{4}$ drýgri enn Rúgkorn. Hafra reikna eg ecki, því þeir flytiast

iaſt ſialdan til Búsílags af útlendſkum og þvî læt eg þad ómatid.

Svo verdur þá iefnudurinn yfir höfud, á Saudum vorum á fæti, og útlendſkum Matverum, þeſſi, ſem fylgir:

Veturgamall Saudur iafnaſt:
5 Fiórdúngum 17 Merkum Rúgmiøls. 2 Sképpum 8 pottum Rúgkorns og Erta. 7 Fiórdúngum 16 Merkum Byggmiøls. 3 Skp. 4⅔ pt. Bygkorns, og 1 Skp. 15 pt. Grióna.

Tvævetur Saudur iafnaſt:
8 Fiórd. Rúgmiøls. 3 Skp. 6 ptm. Byggs; og 2 Skp. 9 ptm. Grióna.

Prévetur Saudur iafnaſt:
9 Fiórd. 12 Mkm. Rúgmiøls. 4 Skp. Rúgar og Erta. 12 Fiórd. 16 Mkm. Byggmiøls. 5 Skp. 6 ptm. Byggs og 3 Skp. Grióna.

Gamall Saudur iafnaſt:
11 Fiórd. 12 Mkm. Rúgmiøls. 4 Skp. 15 ptm. Rúgar og Erta. 15 Fiórd. 4 Mkm. Bygmiøls. 6 Skp. 8 ptm. Byggs; og 3 Skp. 11 ptm. Grióna.

Nú þó eg her giort hafi ferníags mun á Saudum, eins og Taxtinn af 1702, og vorir Búvíſu menn í ritum ſinum, hafa þó Fríhøndlarar á Eyafirdi giort litin edur engan mun á, ad borga á fæti þrévetra Saudi og elldri,

 þar

þar þeim þykir þessir skerast hinum litlu betur, eg bændur segia líka, ad Saudir skériſt best á stokuarum, svo fiogravetra, sem gamlir kallast, dugi opt ecki betur enn þrévetra, en fimvetra skari framúr, þarfyrir ef eg skyldi reikna gamla Saudi í samblendi med þrévetrum, þá iafnast.

Þrévetra Saudur og elldri:
10 Fiórd. 12 Mkm. Rúgmiols. 4 Skpr. 7½ pt. Rúgar og Erta. 14 Fiórd. Byggmiols. 5 Skpr. 16 pt. Byggs; og 3 Skpr. 5½ pt. Grióna.

Þetta er nú þad Medalverd, sem ver setia kunnum uppá Saudi vora á fæti móti Matvælum útlendskra, eptir innbyrdis búdryginda iafnvægi þeirra; og þó máske minna enn Medalverd, því eg hefi leitast vid ad láta helldur í Reikníngunum ellum hallast á vorn hluta enn útlendskra. Því

a) tek eg dæmid af þeim lakari Saudum á mer, og eg þori ad segia, ad fleiri verda þeir sem skérast betur ad iofnudi, en hinir sem midur skérast, ad eg ecki tali um úr sumum sveitum, hvar veturgamlir Saudir skérast á mer nær svovel, sem þeir gemlu, eptir mínum reikníng.

b) Eg reikna ullarverdid eins og hún metast skyldi ótætt, þar þó Bóndinn selur alldrei haustull sína, helldur tætir.

c)

c) eg felli Skinnid úr sinu gamla og nýa Landverdi.

d) ecki helldur hefi og reiknad Sallt þad, sem til Miølvatns grauta þarf, ef þeir ega ad verda ætilegir, enda brúkast og nockud lítid af því til Kiøtmetis, hiá Almúga.

e) Mølun Rúg-kornsins hefi eg ei helldur reiknad, af því eg reiknadi ecki tréd í Miøltunnunni, iafnvel þó engin vili mala heila tunnu Rúgar, fyrir eins tunnustocks verdi.

Þetta hefi eg giørdt til ad varast sem best þad sker, sem margir stranda á, ad hallda of fremt med sínum løndum, þar sanngyrni er best, hvør sem í hlut á, en Dýrleikin á Saudunum nær samt vel svo því, sem Fríhøndlarar hafa optar fyrir þá gèfid.

Líki nú løndum mínum þad midur, ad eg giøri oflítid úr Saudum þeirra, einkum þeim, sem ætla sig ad ega vænri Saudi, enn eg í Reikníngunum hefi giørdt rád fyrir, getur sá halli vel bætst þeim, ef þeir selia Saudi sína á vigt útlendskum, hvøria Kaupmenn eru opt fúsir ad taka, og vil eg því leitast vid ad sýna hvad Kiøt, Mør og Giærur kunni þá sannsýnilega ad seliast móti útlendskra Matvørum, — Svoleidis:

a) í tilliti veturgamalls Saudar. Eg hefi sett, ad úr Kiøti hanns med Slátrinu, og 1½ Pd. tólgar andvirda í Miøli, verdi í Spadi 30 Málsverdir. Nú verda úr 1½ Pd.

tól-

tólgar $4\frac{8}{10}$ Málsverdir á 10 Lód, og Slátrid af hønum setti eg fyrir 6, sem hvørutveggi teknir frá 30, skilia eptir $19\frac{2}{10}$ Máslv. fyrir Kiøtid siálft, er eg setti ad vægi 28 Pd. í hángikiøti verda úr því 18 Málsverdir; í Kiæfu verda 28. Málsverdir úr Kiøti og Mør, en úr tólgu- um fyrir sig, sem giørir 3 Pd., verda $9\frac{6}{10}$ Málsv., og þarfyrir úr Kiøtinu einu $28\frac{2}{10}$.

b) í tilliti tvævetur𝔰. Ur hønum verda í Spadi 37 Málsv., þarfra fyrir Slátrid 7, og fyrir 2 Pd. tólgar $6\frac{4}{10}$ Málsverdir, verda eptir úr kiøtinu sialfu $23\frac{6}{10}$, sem eg setti blaut 40 Pd. ad vigt.

í Hángikiøti giørir þad 24 Málsverdi.

í Kiæfu verda 54 Málsv. úr Kiøti og Mør, en ad fráteknum fyrir tólgin, sem er 5 Rd., 16 Málsv. verda eptir 38 úr Kiøtinu einsemlu.

c) í tilliti þrévetur𝔰. Ur hønum verda í Spadi 44 Málsverdir, þar frá fyrir Slátrid 8, og fyrir $2\frac{1}{2}$ Pd. tólgar 8 Málsv. verda eptir 28 úr Fallinu, sem eg setti ad vigt 48 Pd.

í Hángikiøti giørir þad 29 Málsv.

í Kiæfu verda 66 Málsv. úr Kiøti og Mør en ad fráteknum fyrir 7 Pd. tólgar, $22\frac{4}{10}$ Málsv., verda eptir $43\frac{6}{10}$ úr Kiøtinu.

d) í tilliti gamalls. Ur hønum verda í Spadi 50 Málsv. þar frá fyrir Slátrid 9, og fyrir 3 Pd. tólgar $9\frac{6}{10}$ Málsv. verda eptir

$31\frac{4}{10}$

$31\frac{4}{10}$ úr Krofinu, sem eg setti ad vægi nýtt 55 Pd.

í Hángikiøti verda úr því 34 Málsv.

í Kiæfu verda 80 Málsv. úr Kiøti og Mør, en ad fráteknum fyrir $8\frac{1}{2}$ Pd. tólgar, $27\frac{2}{10}$ Malsv. eptir $52\frac{8}{10}$ úr Kiøtinu.

Hér út af flýtur þá svo látandi iafnadar-reikníngur.

1) Uppá Kiøtid á vigt:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 28 Pd. | gefa | í Spadi $19\frac{2}{10}$ Málsverdi. | |
| | | í Hángikiøti 18 Málsverdi. | |
| | | í Kiæfu $28\frac{2}{10}$ | |
| | og til iafnadar | ——— | $21\frac{8}{10}$ |
| 40 Pd. | = | í Spadi $23\frac{6}{10}$ | |
| | | í Hángikiøti 24 | |
| | | í Kiæfu 38 | |
| | til iafnadar | ——— | $28\frac{16}{30}$ |
| 48 Pd. | = | í Spadi 28 | |
| | | í Hángikiøti 29 | |
| | | í Kiæfu $43\frac{6}{10}$ | |
| | til iafuadar | ——— | $33\frac{16}{30}$ |
| 55 Pd. | = | í Spadi $31\frac{4}{10}$ | |
| | | í Hángikiøti 34 | |
| | | í Kiæfu $52\frac{8}{10}$ | |
| | til iafnadar | ——— | $39\frac{12}{30}$ |
| 171 Pd. | af nyu Kiøti, giøra þa | | $123\frac{8}{30}$ Málsv. |

Þess-

Þessvegna giøra þá 16 Pd. edur 1 Lpd. af nýu Saudakiøte $11\frac{1369}{2585}$ Málsverdi, sem eg set ecki nema $11\frac{1}{2}$.

Þessir $11\frac{1}{2}$ Málsverdir iafnast, eptir ádursettum grundvelli vid $14\frac{3}{8}$ Rúgmiøls, en $10\frac{23}{32}$, er eg set $10\frac{3}{4}$ potta Rúgar.

2) Uppá Mørin á vigt:

Eg set ad úr hvørium 10 Pd. Mørs í Kaupstad bræddum verdi $8\frac{1}{2}$ Pd. tólgar, sem giøra $27\frac{2}{10}$ Málsverdi á 10 Lód, þarfyrir iafnast þá 10 Pd. Mørs þeim sømu, og þessvegna 1 Pd. Mør $2\frac{10}{25}$ Málsv. sem, eptir fyrsettum reglum, iafnir metast $3\frac{2}{5}$ Pd. Rúgmiøls, en $2\frac{11}{20}$ pottum Rúgar.

3) Uppá Giærtir.

a) af veturgømlum; hana matti eg iafna 3 Pd. tólgar, sem giøra $9\frac{6}{10}$ Málsv. iafna 12 Pd. Rúgmiøls, en 9 pottum Rúgar.

b) af tvævetrum; hana virdti eg vid 4 Pd. tólgar, sem giøra $12\frac{8}{10}$ Málsv., iafna 16 Pd. Rúgmiøls, en 12 pottum Rúgar.

c) af þrevetrum; hana lagdi eg móti $4\frac{1}{3}$ Pd. tólgar, sem giøra $13\frac{26}{30}$ Málsverdi, iafnt $17\frac{1}{3}$ Pd. Rúgmiøls, en 13 pottum Rúgar.

d) af gømlum; hana iafnadi eg $5\frac{1}{2}$ Pd. tólgar, sem giøra $17\frac{6}{10}$ Málsv., iafna 22 Pd. Rúgmiøls, en $16\frac{1}{2}$ ptm. Rúgar.

Edar

Edur ef eg reikna saman giærur af hrè-vetrum og gømlum, sem Kaupmenn her iafnar meta, verdur hvílík ein iøfn.

$4\frac{11}{12}$ Pd. tólgar, sem giøra $15\frac{8}{10}$ Málsv. iafna $19\frac{2}{3}$ Pd. Rúgmiøls, en $14\frac{3}{4}$ ptm. Rúgar.

Eptir frámansettum iøfnudi, er hvøriuni alhægt ad reikna Kiøt, Mør og Giærur móti Byggi, Bygmiøli og Griónum.

En hó ad eg reikni her Rúgkorn eptir mælir í Skèppum og pottum, væri hó øllu sannsýnilegra ad reikna had eptir vigt, hví opt á Kornvara ecki saman nema nafnid, hó sami se Mælirinn, en vigtin á hurru korni segir øllu vissara til gædanna; einkum væri hetta rèttast, hegar útlendskir heimta vora Saudi á vigt; hví hefur og Kóngur vor leipt vigt í Kornhøndlan med Forordníngunni af 21ta October 1791.

Had sýnist og af Búal. Cap. 34, sem Sidur verid hafi Rúg ad vega í Fornølld.

Af hessu er audsèd, ad hegar Bóndinn selur Saudi sína í Kaupstad móti peníngum, hefur hann alltíd ad líta til hess, hvad Mat-vørur útlendskra á sømu tíd kosti, og kann hví ad setia uppá Saudi sína svo mikid, ad hann siái hann fengid géti fyrir sama verd heim hèr ad framan iafnmetna Matvøru hæd hiá út-

lendsk-

lendskum, ef hønum edur ødrum áliggur. Til dæmis:

Ef 1 tunna Rúgkorns skyldi adeins kosta 4 Rdl. Cór.: þá setur hann uppá sinn vetur-gamla Saud á sæti, svo mikid sem $4\frac{1}{4}$ pottar Rúgar kosta á sømu tíd; þegar svo reiknast ad hvør 1 pottur kosti $2\frac{2}{3}$ ß.

en kosti 1 tunnu 5 Rd., þá vill hvør pot. kosta $3\frac{1}{3}$ ß.
— — 6 — — — 4 ß
— — 7 — — — $4\frac{2}{3}$ ß
— — 8 — — — $5\frac{1}{3}$ ß
— — 9 — — — 6 ß
og svo framvegis.

Allt eins fer hann ad, þegar hann selur Saudi eptir vigt, þá setur hann uppá 1 Lpd. Kiøts eins mikid og $10\frac{3}{4}$ pottar Rúgar kosta á sømu tíd, og uppá 1 Pd. Mørs eins og $2\frac{15}{20}$ pottar gylda.

Þetta verdlag á Saudum vorum, sem eg her reiknad hefi, getur enganvegin ofhátt verid, því eg hefi byggt þad á reglum búvitr-ustu og reynduftu manna í Landi voru, og þó alltíd helldur slakad til á vora Sidu, enda hafa og Fríhøndlarar stundum borgad Saudi betur, enn eg þá verdlagt hefi, því vid hefur borid, ad þeir hafa gefid fyrir veturgamlan

Saud

Saud á fæti 10 til 11 Mork, þegar 1 tunna Rúgar hefur ei kostad hiá þeim nema 5 Rd., og líka 40 ß. fyrir 1 Lpd. Kiøts, en ecki yfir 8 ß. fyrir 1 Pd. Mørs þad eg tilveit. Giærur hafa þeir alldrei svo vel borgad, sem eg þær metid hefi, enda hefur og Eigandanum opt stadid frítt fyrir ad taka þær aptur.

Engu ad sídur eru þó margir tregir ad selia fe sitt á vigt útlendskum, sem ordsakast fyrst af því, ad bændur lída svo mikla tímatøf frá heyvinnu sinni, med því ad slátra, fe sinu siálfir í Kaupstadnum, þarnæst af því ad Kaupmenn heimta Saud fe svo snemma til Slátur, edur med Septembris mánadar byriun, þar bændur siálfir taka ei ad lóga Saudum sínum fyr enn í endverdum Octobr., og fyrri er þeim ei fullfarid fram hvørki ad Mør ne Kiøti, allrasíst ad Ullarverti, og iafnvel þó Kaupmenn geti ei vel ad þessu giørdt, þar þeir þurfa svo snemma til Siglingar búnir ad vera, ætti samt ecki Bóndinn ad taka allann skada þar vid, helldur mætti setia Kiøt og Mør fyrir þan munin nockru dýrara, sem eg þó eigi giørdt hefi, og med því móti látid enn gánga á hluta landa minna, framar enn útlendskra.

En til hins, ad útlendskir vilia miklu helldur kaupa Saudi vora á vigt, enn fæti, erum ver siálfir ecki hin minsta ordsøk, því

sumir

sumir af oss hafa þann vanda, ad færa Kaup-
mønnum hid lakasta af Saudum sinum, en
setia þó uppá þá so fullt verd sem hinir vænstu
væru, hvad ecke er rétt giørdt, en þó allra-
sist þad, ad ota fram vid þá Mylkum- og
Gamal-ám, sem bædi eru Mørlausar og
Kiøt þeirra svo lakt, ad þad spillir harla
Miøg útsali þess fyrir Kaupmønnum utan-
lands; her ad auki er ennú eitt, sem fælir
útlendska frá, ad leigia siálfir fólk til ad
slátra Saud fe, sem eg ad sønnu blygdast
vid ad nefna, en má þó Sannleikans vegna
ecki yfirþegia, nefnilega sumra hvørra, en-
ganvegin allra af voru Slátur fólki, vid styg-
gilegt hnupl, í því ad kroppa af Kiøti og
enkum Mør, Sláturfiqrins, er giørir Lands-
fólkinu stóra Minkun, og frómir menn mega
opt saklausir bera Ámælisord fyrir.

Ad Saudir hafi verid svo hátt metnir
til forna móti Miøli, sem eg sett hefi, má
fullar Líkur tildraga, því fyrir utan þad, ad
Miøltunnan, sem eptir Taxta af 1619 vega
skyldi 20 Fiórdúnga, feckst þá í hundrads-
kaupi fyrir 2½ Saud veturgamlan, sem er
frekara verd á Saudnum enn eg reiknad hefi,
þá leggia Búaløg Cap. 4. veturgamlan Saud
15 Álnum, en Cap. 32 3 tunnur Miøls í
1 T., sem er ogsvo hærra Saudaverd, enn
eg sett hefi. Þad er og audsed, ad Is-
lend-

lendíngum hafa þókt Saudir ſínir oflítid matn-
ir í Taxta af 1619, af þeirri klögun er ſamin
var á Alþíngi 1632, þar þeir qvarta yfir,
ad gamall Saudur ſe í Taxtanum ecki lagdur
meir enn 40 Fiſkum, þar hann gángi millum
Innbyggiaranna fyrir 60 Fiſka, ſvo eptir
því hafa þeir viliad, ad 1½ Saudur gamall
ſkylde gylda ámóti 1 tunnu Miöls, en 3
veturgamlir, því hún koſtadi þá í einkaupi
móti Landvörum 90 Fiſka. Hvad mun hafa
valldid þeſſu ad Forfedur vorir vildu Saudina
ſvo hátt meta móti Miölinu, nema ad þeim
hafa þókt þeir þeim mun betri og koſtaríkari
enn þad?

Hvad eg nú hér ad framan metid hefi
ſannſynilegt verdlag á Saudum vorum móti
útlendſkra Matvælum, er enganvegin ſagt í
þeirri Meiníngu, ſvoſem þad væru þarfyrir
alltid ránglindi edur óiöfnudur á útlendſkra
hálfu, þó þeir ei vili gefa ſvo mikid fyrir
vora Saude, á fæti edur vigt, ſem eg ſett
hefi; þad er ſitt hvad ad ſegia: ad Kaup-
madurinn giöri mer rángt til med ſölu ſinni,
þegar hann ſelur mer ecki ſvo eg þykiſt ſkad-
laus vera, edur hitt: ad Sala hanns ſe mér
þúngbær og til Afdrattar. Til ad geta ſagt
þad fyrra útkrefſt náqvæmleg þecking, um
Innkaup Fríhöndlara á þeirra útgiörda úp-
pa-

þákostnad med öllu, og iefnund á inn- og út-sali; og hver af Almúga hefur þeckingu nóga um slíkt, til ad geta dæmt Sölu Fríhöndlara rángindi á þeirra Sídu. En til ad segia þad sídara, útkresst einúngis þecking vors egin búnadar ástands, og iafnadar á útillátinna og medtekinna Matvæla búdrhgiudum, um hvad þó margir allt of fáfródir eru. A hinu megum ver alls ecki sleyta oss, þó Kaupmenn geti ei iafnan bodid oss sama verd fyrir Saudi vora, sekum þess Kiot og tólgur eins og Korn og Miöl, stigur svo misiafnt utanlands eptir árferdinu, svo penígaverd kann alldrei ad verda stödugt á þesskonar vörum, því skortur og gnægd á hvöriu fyrir sig, skapar her ein-úngis verdlagid. Þad kánn og vel ske, ad at Kaupmenn borgi oss ecki eitt árid Saudi vora í Matvorum edur peníngum eptir þeim iöfnudi, sem eg sett hefi, borgi þeir þá máské því betur annad ár, þegar þeir siálfir giöra betri Kaup utanlands, til hvörs sanngyrnilega ber ad líta.

Þegar menn renna auga til þess yfrid lága verdlags, sem í Fornelld gafst á Mat-vörum móti peníngum utanlands, til dæmis Ar 1380 á dögum Olafs Köngs Hákonarsonar í Danmörk, þegar 1 tunna Rúgar kostadi 8 ß., Kyrin 6, Ærin 1½, og Smiörfiórd-

ún-

Kngurinn 1⅔ ß., sem segir í Zopfens alheims historíu, og nockru sídar á dogum Kóngs Christians 1ta, þegar 1 Stallori og 1 Smiørtunna kostadi hvert um sig 3 Mørk; sem Professor Kierulf í Minerva tilkynnir, þegar menn renna auga til þessa, segi eg, og undir eins til vorra tíma ysrid háa verdlags á þesskonar aurum, þá er þad allra stærsta ósanngyrni og heimska, ad eigna þad kaupskapar rangsleitni þessara tíma, helldur hefur slíkur verdsmunur sprottid annad hvert af Gnægd þessara hluta þá framar enn nú, edur og øllu helldur af þeirra tíma peninga skorti, edur máske af hvortutveggiu.

Svoddan ættu allir skynsamir menn ad íhuga, og ei hneixlast á þessara tída hverfula verdlagi, sem fylgir af Fríhøndlunarinnar edli, og er miklu náttúrlegra í siálfu ser, helldurenn ad hvør hlutur hafi fast bundid verd, hvert sem mikid ellegar lítid er annars til af hønum. En þad gengur svo til Medal vor, sem Ordtækid hliódar, og þad ecki sist, sídan sú ótartabundna høndlan hófst í Landi voru: ad svo er margt seldt og keypt ad sitt lítst hverium.

Þad 3ia Atridi í Spursmáli Hra. Amtmansins er þá eptir, sem er þetta: Sé Saudum slátrad heima, hvornig á

þá

þá Bóndinn á haganlegasta og drjúgasta máta ad nota sér í búnadinum Kiøt, Mør og Ull?

1) Hvad Kiøtmeti áhrærir, hefi eg her ad framan sýnt, hvør þeß búdriúgasta notkun se, þegar hóflega og haganlega er medfarid. Ad sallta smá høggvid kiøt nidur ad hausti, og brúka þad svo í Spadi um vetur, er ad vísu alldriúgleg medferd á því, og máske vanans og Tídarinnar vegna hin driúgasta. Allteins má brúka Slátur sem Spad í Súpu, og svo á ad skiliast her ad framan. Miøl þarf ad vísu nockud í Súpuna, en þad þyrfti þó lítid edur eckert, ef menn vildu nýta sér Matiürtir og Kál í þeß stad. Brúka má Syru í Salltsstad, á þann hátt: ad væta dyggilega í henni þad nidurhøggna Kiøt, sem geymast á til vetrarforda. Ad geyma Slátur og Svid í Súrsi, er algeng og góð brúkun.

Eg hefi sagt ad Spadid se hin driúgasta Kiøtmetis notkun vanans vegna, og er þad víst, því hángikiøt má verda allteins af ecki búdriúgara, ef sparlega er medfarid eptir skømtulagi og reglu Bóndans í 11 Fel. Riti, sem eg ádur ámynst hefi; en þó aukid nockud Málsverdin í reikningum, ad sídur yrde útá sett; en hvørsu ólíkt er þad því óhóflega

skømtu-

skemtulagi, sem á því brúkad er til hátída og tillidaga hiá Almúganum, þegar einum Kallmani eru skemtud í senn 3 og 4 Pd. til eins Málsverdar. Þessi fæda er kó hin allra stadbesta fyrir þiónustu-fólk, og þyrfti því af henni minni Málsverd enn annari, og þar ud auki hvotlminni og handhægri enn Spadmeti í búnadinum. Þessvegna er engin ordsök ad telia fólk frá allri hángikiøts brúkun, því vid hana sparast bædi Sallt, ílát til geymslu og Miøl, einúngis ad fólk vildi brúka þad hóflega, og í þessu samsinna mer reyndir þrifabændur, sem eg hefi átt tal vid. Hángikiøtssmeckurinn er ogsvo Islands Almúga svo þægur; ad forgefins mundi hann frá þess brúkun ad telia, med því bændur meta þad sína kræsileguslu fædu, og brúka þad iafnan, þegar mest vilia vid hafa, hvad þeim enganvegin lá er, því fleirum þiódum smackast vel reikt Kiøt, enn þeim; þad má siá, medal annars af Riti Joh. C. Schmidt, geschichtmäßige Untersuchung der Fastelabends Gebrauche in Mecklenburg.

2) Hvad Mørsins edur tólgsins búdriúgustu notkun snertir, þegar hann ecki, hvert helldur er, selst útlendskum, er ymislegur máti til.

Kiæfu tilbúníngur, í hvoria stundum gengur allur Mør og Kiøt er kéndr 5 Fel. Riti pag. 85. Hann er ágætur í Smiør-skorti, og verdur Saudurinn á þan hátt hvad búdriúgastur, sem ádur er sýnt, ef haganlega er medfarid. — En Smiørskortur þyrfti þó ecki ad vera einasta ordsøk Kiæfu tilbúníngsins, því bóndanum væri miklu dri-úgara ad selia tøluverdt af Smiøri sinn fyrir fisk, og brúka siálfur Kiæfuna til vidbits í stadin; þó — sem eg sagdi — tídarinnar vegna neydist nú Bóndinn ad nota sér Saudi sína á óbúdriúgari hátt, þar hann fær nú varla lengur fisk til Kaups vid Siósiduna, sídan Fríhøndlarar eru teknir ad draga han mest allan til sín út af Landinu.

Þegar menn ei búa Kiæfuna til, en vilia þó nota sér tólgin til vidbits, er hent-ast ad blanda hønum saman vid Smiør, ann-adhvert med því ad bræda han, og hella hønum í Strockin undir þad skilid er, ell-egar ad hnoda han bræddan edur smaskasin saman vid Smiørid strax nýtt, og geyma sídan. — Sumir búa til svokalladan bræd-íng úr gódu Lýsi og tólg, med nockru Sallti í sér er fullgott vidbit, þeim sem því vanir eru.

En

En sióda nockrir nýan Mør í vatni, sallta han svo nidur í ílát, og geyma til vidbits, sem verdur øllu gott, og iafndriúgara enn ad bræda han til tólgar.

3) Hvad Ullarinnar haganleguſtu notum vidvíkur, þá er ei svo hægt ad fast setia víst, þarum, med því tóvoru prís hiá útlendskum er svo misiafn og sárlega lítill, ad fáar tókonur eru svo fliótvirkar, ad vel geti unnid fyrir Fædi sínu í Ullar-tóskap, þegar úr henni tætast tvinna-edur einfallds bands sokkar, sem algengast er, og þetta venur Almúgan til ad selia svo mikid af Ullu sinni ótættri Kaupmønnum, og undireins til Ydiuleysis og leti, þegar hann ser hvad tóverkid er illa launad; þar launin ad tæta eina tvinnabands-sokka á 18 ß., sem Qvennmadurinn giørir ei øllu betur enn koma af í 4 daga, stíga ecki yfir 40 ß., og hvørnig kann hún ad lifa af 2½ ß. um daginn; eda mun vart 1 ßs. Máltíd verda stór á þessum tímum.

Annars væri þad betst fyrir Almúga, ad tæta siálfur allan sin Klædnad, og rænast ecki eptir þeim dýrkeyptu Klædum hiá útlendskum, þared og margur getur unnid svo vel einskeptur og vadmál, þæst þau og litad siálfur, ad ei gésa stórt eptir útlendskum varnings-

íngsklædum í Aferdinni, enn hallda miklu betur. Best væri og bóndanum, ad vefa í þeim nýa vefstól sem mest af fatnadi sínum, því þad er miklu fliótara enn prjónaskapur, og getur hann flest þad, sem hann til dags og nætur þarf, ofid, nema húfur, sokka og vetlínga. Medan dúkar og vadmál gengu med þolanlegum prís hiá Dönskum, var hagnadur ad tilbúa þá uppá verkid, helldurenn prjónasaum, því hverfu fliótara vegst ein alin helldur enn eitt par sokka prjónast, þar þó hvorutveggia kostadi nærri iafnt.

Hespugarn er og sæmilegur tóskapur, og launar verkid sinlega á því grófara, sem 3 hespur gánga í 1 Pd. á 16 ß., en þad þykir aptur ullarfrekt fyrir þá sem litid af henni hafa. Þad sínara Garn borga Kaupmenn miklu midur, og er litlu betra enn Smáband til verkalauna.

Nú í Ar, þegar Mioltunnan er fyrir 7 til 8 Rd., þarf Sveitabondinn, sem hana kaupa hlýtur fyrir prjónles, ad leggia út fyrir hana 37½ til 42½ par tvinnabands sokka, en til forna þurfti hann ei fyrir hana, eptir Taxt. af 1702, nema 11 par.

Og í þessu tilliti, sem og hinu ad giøra Fiskin annadhvørt óſáanlegan edur offa dýrkeyptan er þad sem høndlunin kreppir meſt ad Sveitabændum, þeim sem ei uppalid geta svo margt Saudfé, ad þeir med því keypt fái allar sínar Naudsyniar hiá inn- og út-lendskum, sem ómøgulegt er nema í beſtu Utigángsſveitum. Hvar á móti bændur þeir, sem bleypt geta upp Saudfe koſtnadarlítid á vetrum, kénna lítid þeſſara þýngſla helldur enn Sióbændur, sem nógan Fisk edur Lýſi hafa; því Saudir hafa þó optar híngadtil halldid iafnvægi móti Matvælum útlendskra vid þad sem ádur var, en Fiskur gengid þar opt framyfir. Og þeſſir hvørutveggi bædi Sauda- og Fiski-bændur, geta nú safnad meir enn þrefalldri penínga upphæd, hiá því sem tilforna. Hvarfyrir ad allir þeir ríkismenn nú á døgum, sem meta ſtærd audæfa ſinna, eptir Fiølda þeirra penínga, sem þeir ſafna, hafa ordſøk ad meta Landſins lukku komna undir dýrleika Landſins Matvæla, fyrir hvørra Sølu til útlendskra, þeir fá nú á tímum svo miklu ſtærra penínga-verd enn fyrrum, en þeir þenkia þá fyrir víſt lángt ødruvíſi, helldurenn ſá ríki Mylnumadur, er, fyrir nockum árum bió á þeirri engelſku eyu Wight, hvøred eptir úrskurdi Hra. Wendeborns, er vid hann Málſtad átti,

álýſt-

ályktadi, til sóma hugviti sínu og hiartalagi, í líku tilferli, þannig:

"iafnvel þó siálfur eg grædi á þessum tímum "meira enn tilforna, æskti eg þó, ad þær "fyrri tídir væru apturkomnar, því þá lifd- "um ver betur, fengum léttara kaup, og "værum lukkulegri."

